Verð: 25 aur.

Íslendinga sögur.

35.

# Þorfinns saga karlsefnis.

Búið hefir til prentunar
**Valdimar Ásmundarson.**

Reykjavík.

Kostnaðarmaður: Sigurður Kristjánsson.

1902.

Félagsprentsmiðjan.

Digitized by Google

# FORMÁLI.

Þorfinns saga karlsefnis er áðr prentuð í „Grönlands historiske Mindesmærker“, „Antiqvitates Americanæ“ og í Flateyjarbók og Hauksbók. Sagan hefir auk þess verið gefin út sérstaklega og í þýðingum, einkum enskum.

Hún er mjög lítt kunn hér á landi, því hér hefir hún ekki verið fáanleg nema í afardýrum útgáfum, sem auk þess eru flestar útseldar fyrir löngu.

Sagan er skemtilega rituð, og eflaust rituð snemma á söguöldinni.

Aðalefnið í henni er Vínlandsfundrinn, eða um ferðir Þorfinns Karlsefnis og Snorra Þorbrandssonar til Vínlands.

Digitized by Google

## TÍMATAL.

Fæddr Snorri Þorbrandsson. . . . um 964
Fæddr Leifr heppni . . . . . . . um 965
Fæddr Þorfinnr karlsefni . . . . . um 972
Eiríkr rauði fer að nema Grænland . . 986
Bjarni Herjólfsson kom til Ameriku . um 885
Snorri Þorbrandsson fer til Grænlands og
Leifr heppni finnr Vínland . . . 1000
Leifr heppni kemr aftr til Grænlands. . 1001
Þorvaldr Eiríksson fer til Vínlands . . 1002
Þorfinnr karlsefni kemr til Grænlands . 1006
Þorfinnr karlsefni og Guðríðr fara til
Ameríku . . . . . . . . . . . . 1007
Þorfinnr og félagar hans verzla við
skrælingja. Snorri Þorfinnsson fæddr
á Vínlandi . . . . . . . . . . 1008
Þorfinnr fer aftr frá Vínlandi til Græn-
lands . . . . . . . . . . . . . 1011
Þorfinnr kemr til Íslands . . . . . . . 1014

Digitized by Google



# Þorfinns saga karlsefnis.

Óláfr hét konungr, er kallaðr var Óláfr hvíti. Hann var son Ingjalds konungs Helgasonar, Óláfssonar, Guðröðarsonar, Hálfdanarsonar hvítbeins Upplendingakonungs. Óláfr herjaði í vestrvíking, ok vann Dyflinni á Írlandi ok Dyflinnarskíri. Þar gerðist hann konungr yfir. Hann fekk Auðar djúpúðgu, dóttur Ketils flatnefs, Bjarnarsonar bunu, ágæts manns ór Noregi. Þorsteinn rauðr hét son þeira. Óláfr fell á Írlandi í orrustu, enn Auðr ok Þorsteinn fóru þá í Suðreyjar. Þar fekk Þorsteinn Þuríðar dóttur Eyvindar austmanns, systur Helga hins magra; þau áttu mörg börn. Þorsteinn gerðist herkonungr; hann réðst til lags með Sigurði jarli hinum ríka, syni Eysteins glumru. Þeir unnu Katanes ok Suðrland, Ros ok Mærhæfi ok meir enn hálft Skotland; gerðist Þorsteinn þar konungr yfir, áðr Skotar sviku hann ok fell hann þar í orrustu. Auðr var þá á Katanesi,



Digitized by Google

er hon spurði fall Þorsteins. Hon lét þá gera knör í skógi á laun, ok er hon var búin, helt hon út í Orkneyjar. Þar gifti hon Gró, dóttur Þorsteins rauðs; hon var móðir Grelaðar, er Þorfinnr jarl hausakljúfr átti. Eftir þat fór Auðr að leita Íslands; hon hafði á skipi tuttugu karla frjálsa. Auðr kom til Íslands, ok var hinn fyrsta vetr í Bjarnarhöfn með Birni bróður sínum. Síðan nam Auðr öll Dalalönd, milli Dögurðarár ok Skraumuhlaupsár. Hon bjó í Hvammi. Hon hafði bænahald í Krosshólum; þar lét hon reisa krossa, því at hon var skírð ok vel trúuð. Með henni kvámu út margir göfgir menn, þeir er herteknir höfðu verit í vestrviking, ok váru kallaðir ánauðgir. Einn af þeim hét Vífill. Hann var ættstórr maðr ok hafði verit hertekinn fyrir vestan haf, ok var kallaðr ánauðigr áðr. Auðr leysti hann. Ok er Auðr gaf bústaði skipverjum sínum, þá spurði Vífill, hví Auðr gæfi honum engan bústað sem öðrum mönnum. Auðr kvat þat engu mundu skifta; kallaði hann þar göfgan mundu þykkja sem hann var. Hon gaf honum Vífilsdal ok bjó hann þar. Hann átti þá konu er hét . . . . . . . . Þeira synir váru þeir Þorbjörn ok Þorgeirr; þeir váru efnilegir menn, ok óxu upp með feðr sínum.

2. (Eiríkr rauði fann Grænland), Þorvaldr hét maðr. Hann var son Ásvalds Úlfssonar, Öxna-Þóris-

Digitized by Google

sonar. Eiríkr hét son hans. Þeir feðgar fóru af Jaðri til Íslands fyrir víga sakir, ok námu land á Hornströndum, ok bjuggu at Dröngum. Þar andaðist Þorvaldr, enn Eiríkr fekk þá Þórhildar dóttur Jörundar Atlasonar ok Þorbjargar knarrarbringu, er þá átti Þorbjörn enn haukdælski, ok bjó á Eiríksstöðum síðan, er Eiríkr réðst norðan; þat er hjá Vatnshorni. Þá feldu þrælar Eiríks skriðu á bæ Valþjófs á Valþjófsstöðum. Eyjólfr saurr, frændi hans, drap þrælana hjá Skeiðsbrekkum upp frá Vatnshorni. Fyrir þat vá Eiríkr Eyjólf saur; hann vá ok hólmgöngu-Hrafn at Leikskálum. Geirsteinn ok Oddr á Jörfa, frændr Eyjólfs, vildu eftir hann mæla; þá var Eiríkr gerr brott ór Haukadal; hann nam þá Brokey ok Öxney, ok bjó at Tröðum í Suðrey enn fyrsta vetr. Þá léði hann Þorgesti setstokka; síðan fór Eiríkr í Öxney ok bjó á Eiríksstöðum. Hann heimti þá setstokkana ok náði eigi. Eiríkr sótti þá setstokkana á Breiðabólsstað, enn Þorgestr fór eftir honum. Þeir börðust skamt frá garði at Dröngum; þar fellu tveir synir Þorgests ok nökkurir menn aðrir. Eftir þat höfðu hvárirtveggju setu fjölmenna. Styrr veitti Eiríki, ok Eyjólfr ór Svíney, Þorbjörn Vífilsson ok synir Þorbrands í Álftafirði, enn Þorgesti veittu synir Þórðar gellis ok Þorgeirr ór Hítardal, Áslákr ór Langadal ok Illugi son hans. Þeir



Digitized by Google

Eiríkr urðu sekir á Þórsnessþingi. Hann bjó skip í Eiríksvági, enn Eyjólfr leyndi honum í Dimunarvági meðan þeir Þorgestr leituðu hans um eyjarnar. Hann sagði þeim, at hann ætlaði at leita lands þess, er Gunnbjörn, son Úlfs kráku, sá, er hann rak vestr um haf ok hann fann Gunnbjarnarsker. Hann kveðst aftr mundu leita til vina sinna ef hann fyndi landit. Þeir Þorbjörn ok Eyjólfr ok Styrr fylgdu Eiríki út um eyjarnar; skildust þeir með hinni mestu vináttu; kveðst Eiríkr þeim skyldu verða at þvílíku trausti, ef hann mætti sér við koma, ok kynni þeir hans at þurfa. Sigldi Eiríkr á haf undan Snjófellsjökli. Hann kom utan at jökli þeim er heitir Bláserkr; fór hann þaðan suðr at leita, ef þar væri byggjanda. Hann var hinn fyrsta vetr í Eiríksey nær miðri hinni vestri bygð; um várit eftir fór hann til Eiríksfjarðar, ok tók sér þar bústað. Hann fór þat sumar í vestri óbygð ok var þar lengi; hann gaf þar víða örnefni. Hann var annan vetr í Eiríkshólmum fyrir Hvarfsgnúpi; enn hit þriðja sumar fór hann alt norðr til Snjófells, ok inn í Hrafnsfjörð. Þá kveðst hann kominn fyrir botn Eríksfjarðar. Hverfr hann þá aftr, og var hinn þriðja vetr í Eiríksey fyrir minni Eiríksfjarðar. Enn eftir um sumarit fór hann til Íslands ok kom í Breiðafjörð. Hann var þann vetr

Digitized by Google

með Ingólfi á Hólmlátri. Um várit börðust þeir Þorgestr, ok fekk Eiríkr ósigr. Eftir þat váru þeir sættir. Þat sumar fór Eiríkr at byggja land þat sem hann hafði fundit ok kallaði Grænland, því at hann kvað menn þat mjök mundu fýsa þangat, ef landit héti vel.

3. (Af Þorbirni). Þorgeirr Vífilsson kvángaðist ok fekk Arnóru dóttur Einars frá Laugarbrekku, Sigmundarsonar, Ketilssonar þistils, er numit hafði Þistilsfjörð. Önnur dóttir Einars hét Hallveig. Hennar fekk Þorbjörn, ok tók með Laugarbrekkuland á Hellisvöllum. Réðst Þorbjörn þangat bygðum ok gerðist göfugmenni mikit. Hann var góðr bóndi ok hafði rausnar ráð. Guðríðr hét dóttir Þorbjarnar; hon var kvenna vænst ok hinn mesti skörungr í öllu athæfi sínu. Maðr hét Ormr, er bjó at Arnarstapa. Hann átti konu er Halldís hét. Ormr var góðr bóndi, ok vinr Þorbjarnar mikill, ok var Guðríðr þar löngum at fóstri með honum. Þorgeirr hét maðr; hann bjó at Þorgeirsfelli. Hann var auðigr at fé ok hafði verit leysingi. Hann átti son, er Einarr hét; hann var vænn maðr ok vel mannaðr; hann var ok skartsmaðr mikill. Einarr var á siglingum meðal landa, ok tókst honum þat vel; var hann jafnan sinn vetr hvárt á Íslandi eða í Noregi. Nú er frá því að segja eitt haust, þá er Einarr var á Íslandi, fór hann með varn-

Digitized by Google

ing sinn út eftir Snjófellsströnd, ok vildi selja. Hann kemr til Arnarstapa. Ormr býðr honum þar at vera, ok þat þiggr Einarr, því at þar var vinátta með þeim. Var borinn inn varningr hans í eitt útibúr. Einarr braut upp varning sinn, ok sýndi Ormi ok heimamönnum ok bauð honum af at hafa slíkt er hann vildi. Ormr þá þetta, ok taldi Einarr vera góðan fardreng ok auðnumann mikinn. Enn er þeir heldu á varninginum, gekk kona fyrir útibúrsdyrin. Einarr spurði Orm, hver væri sú hin fagra kona, — „er þar gekk fyrir dyrin; ek hefi eigi hana hér fyrri sét.“. Ormr svarar: „Þat er Guðríðr fóstra mín, dóttir Þorbjarnar at Laugarbrekku“. Einarr mælti: „Hon mun vera kostr góðr, eða hafa nökkurir menn til komit at biðja hennar.“ Ormr svarar: „Beðit hefir hennar víst verit, ok liggr þat eigi laust fyrir; finst þat á, at hon mun vera mannvönd, ok svá faðir hennar.“ „Svá með því“, sagði Einarr, „at hér er sú kona er ek ætla mér at biðja, þá vilda ek at þessa mála leitaðir þú við Þorbjörn föður hennar, ok legðir allan hug á, at þetta mætti framgengt verða; skal ek þér fullkomna vináttu fyrir gjalda, ef ek get ráðit. Má Þorbjörn bóndi þat sjá, at okkr væri vel hendar tengdir, því at hann er sómamaðr mikill, ok á staðfestu góða, enn lausafé hans er mér sagt heldr á förum; enn mik skortir hvárki land né

Digitized by Google

lausafé, ok qkkr feðga, ok mundi Þorbirni verða at þessu hinn mesti styrkr ef þetta tækist". Ormr svarar: „Víst þykjumst ek vinr þinn vera, enn þó em ek eigi við mitt ráð fúss, at vit berum þetta upp, því at Þorbjörn er skapstórr ok þó metnaðarmaðr mikill." Einarr kveðst ekki vilja annat enn upp væri borit bónorðit. Ormr kvað hann ráða skyldu. Ferr Einarr suðr aftr, unz hann kemr heim. Nökkuru síðar hafði Þorbjörn haustboð sem hann átti vanda til, því at hann var stórmenni mikit; kom þar Ormr frá Arnarstapa ok margir aðrir vinir Þorbjarnar. Ormr kom at máli við Þorbjörn, ok sagði at Einarr var þar skömmu frá Þorgeirsfelli, ok gerðist hinn efnilegasti maðr; hefir Ormr nú upp bónorðit fyrir hönd Einars, ok segir þat vel hent fyrir sumra hluta sakir — „má þér bóndi verða at því styrkr mikill fyrir fjárskorta sakir". Þorbjörn svarar: „Eigi varði mik slíkra orða af þér, at ek mundí gifta þrælssyni dóttur mína; ok þat finni þér nú, at fé mitt þverr, er slíkt ráð er gefit mér; ok eigi skal hon með þér vera lengr, er þér þótti hon svá lítils gjaforðs verð". Síðan fór Ormr heim, ok hverr annarr boðsmanna til síns heimilis. Guðríðr var eftir með föður sínum, ok var heima þann vetr. Enn at vári hafði Þorbjörn vinaboð, ok kom þar mart manna, ok var hin bezta veizla. Ok at veizlunni krafði Þorbjörn sér

Digitized by Google

hljóðs, ok mælti: „Hér hefi ek búit langa æfi, ok hefi ek reynt góðvilja manna við mik ok ástúð; kalla ek vel farit hafa vár skifti; enn nú tekr hagr minn at óhægjast fyrir lausafjár sakir, enn hér til hefir kallat verit heldr virðingarráð. Nú vil ek fyrri búinu bregða, enn sæmdinni týna; ætla ek ok fyrr af landi fara, enn ætt mína svívirða, ok vitja heita Eiríks hins rauða, vinar míns, er hann hafði, þá er vit skildum á Breiðafirði; ætla ek nú at fara til Grænlands í sumar, ef svá ferr sem ek vilda. Mönnum þótti mikil þessi ráðabreytni, því at Þorbjörn var vinsæll maðr, enn þóttust vita, at Þorbjörn mundi svá fremi þetta upp hafa kveðit, at ekki mundi tjóa at letja hann. Gaf Þorbjörn mönnum gjafir, ok var brugðit veizlunni; síðan fór hverr til síns heima. Þorbjörn selr lönd sín ok kaupir sér skip er uppi stóð í Hraunhafnarósi. Réðust til ferðar með honum þrír tigir manna; var þar í ferð Ormr frá Arnarstapa, ok kona hans, ok aðrir vinir Þorbjarnar, þeir er eigi vildu við hann skilja. Síðan létu þeir í haf, ok er þeir váru í hafi, tók af byri; fengu þeir hafvillur, ok fórst þeim ógreitt um sumarit. Því næst kom sótt í lið þeira, ok andaðist Ormr ok Halldís kona hans, ok helmingr liðs þeira. Sjá tók at stæra, ok þoldu menn hit mesta vás ok vesöld á marga vega, enn tóku þó Herjólfsnes á Grænlandi við

Digitized by Google

vetr sjálfan. Sá maðr hét Þorkell, er bjó á Herjólfsnesi; hann var hinn bezti bóndi; hann tók við Þorbirni ok öllum skipverjum hans um vetrinn. Þorkell veitti þeim skörulega. Í þenna tíma var hallæri mikit á Grænlandi; höfðu menn fengit lítit fang, þeir er í veiðiferðir höfðu farit, enn sumir ekki aftr komnir. Sú kona var þar í bygð er Þorbjörg hét; hon var spákona, ok var köllut lítil völva; hon hafði átt sér níu systr, ok váru allar spákonur, enn hon ein var þá á lífi. Þat var háttr Þorbjargar um vetrum, at hon fór at veizlum, ok buðu þeir menn henni mest heim, er forvitni var á að vita forlög sín eða árferð. Ok með því at Þorkell var þar mestr bóndi, þá þótti til hans koma at vita, nær létta mundi óárani þessu, sem yfir stóð. Býðr Þorkell spákonunni heim, ok er henni þar vel fagnat, sem siðr var til, þá er við þess háttar konum skyldi taka. Var henni búit hásæti, ok lagt undir hana hægindi; þar skyldi í vera hænsna fiðri. Enn er hon kom um kveldit, ok sá maðr er móti henni var sendr, þá var hon svá búin, at hon hafði yfir sér tuglamöttul blán ok var settr steinum alt í skaut ofan; hon hafði á hálsi sér glertölur, ok lambskinnskofra svartan á höfði ok við innan kattskinn hvít, ok hon hafði staf í hendi, ok var á knappr; hann var búinn með mersingu, ok settr steinum ofan um knappinn; hon hafði um sik hnjósku-

Digitized by Google

linda, ok var þar á skjóðupungr mikill, ok varðveitti hon þar í töfr sín, þau er hon þurfti til fróðleiks at hafa; hon hafði á fótum kálfskinnsskúa loðna, ok í þvengi langa, ok á tinknappar miklir á endunum; hon hafði á höndum sér kattskinnsglófa, ok váru hvítir innan ok loðnir. Enn er hon kom inn, þótti öllum mönnum skylt at velja henni sæmilegar kveðjur; hon tók því sem henni vóru menn geðjaðir til. Tók Þorkell bóndi í hönd henni, ok leiddi hana til þess sætis, sem henni var búit. Þorkell bað hana þá að renna þar augum yfir hjú ok hjörð, ok svá híbýli. Hon var fámálug um alt. Borð váru upp tekin um kveldit, ok er frá því at segja, hvat spákonunni var matbúit. Henni var gerr grautr á kiðjamjólk ok matbúin hjörtu ór öllum kykvendum, þeim er þar váru til; hon hafði mersingarspón ok kníf tannskeftan, tvíhólkaðan af eiri, ok var brotinn af oddrinn. Enn er borð váru upp tekin, þá gengr Þorkell bóndi fyrir Þorbjörgu, ok spyrr, hversu henni þykki þar um at litast, eða hversu skapfeld henni eru þar híbýli eða hættir manna, eða hversu fljótlega hon mun vís verða þess, er hann hefir spurt hana, ok mönnum er mest forvitni at vita. Hon kallast ekki muni segja, fyrr enn um morgininn eftir, er hon hafði áðr sofit um nóttina. Enn um morgininn, at áliðnum degi, var henni veittr sá umbúningr, sem

Digitized by Google

hon þurfti at hafa til at fremja seiðinn. Hon bað ok fá sér konur, þær er kunnu fræði þat sem til seiðsins þarf, ok Varðlokkur hétu, enn þær konur fundust eigi; þá var leitat at um bæinn, ef nökkur kynni; þá segir Guðríðr: „Hvárki em ek fjölkunnig né vísindakona, enn þó kendi Halldís, fóstra mín, mér á Íslandi þat kvæði, er hon kallaði Varðlokkur“. Þorkell segir: „Þá ertu happfróð“. Hon segir: „Þetta er þat eitt atferli, er ek ætla í engum beina at vera, því at ek em kristin kona.“ Þorbjörg segir: „Svá mætti verða, at þú yrðir mönnum at liði hér um, enn þú værir þá kona ekki verri enn áðr; enn við Þorkel mun ek leita at fá þá hluti til, er hafa þarf.“ Þorkell herðir nú á Guðríði, enn hon kveðst gera mundu sem hann vildi. Slógu þá konur hring um hjallinn, enn Þorbjörg sat á uppi; kvað Guðríðr kvæðit svá fagrt ok vel, at enginn þóttist heyrt hafa með fegri rödd kvæði kveðit, sá er þar var hjá. Spákonan þakkar henni kvæðit, ok kvað margar þær náttúrur nú til hafa sótt, ok þykkja fagrt at heyra, er kvæðit var svá vel flutt,—“ er áðr vildu við oss skiljast ok enga hlýðni oss veita; enn mér eru nú margir þeir hlutir auðsýnir, er áðr var ek dulin ok margir aðrir. Enn ek kann þér þat at segja, Þorkell, at hallæri þetta mun ekki haldast lengr enn í vetr, ok mun batna árangr sem várar; sóttarfar þat sem á hefir

Digitized by Google

legit, man batna ván bráðara. Enn þér. Guðríðr, skal launa í hönd liðsinni þat, er oss hefir af þér staðit; því at þín forlög eru mér nú allglöggsæ; þú munt gjaforð fá hér á Grænlandi, þat er sæmilegt er, þó at þér verði þat eigi til langgæðar, því at vegar þínir liggja út til Íslands, ok man þar koma frá þér bæði mikil ætt ok góð, ok yfir þínum kynkvíslum skína bjartari geislar, enn ek hafa megin til at geta slíkt vandlega sét, enda far þú nú heil og vel, dóttir.“ Síðan gengu menn at vísindakonunni, ok frétti þá hverr þess, er mest forvitni var á að vita. Hon var ok góð at frásögnum; gekk þat ok lítt í tauma er hon sagði. Þessu næst var komit eftir henni af öðrum bæ; fór hon þá þangat. Þá var sent eftir Þorbirni, því at hann vildi eigi heima vera, meðan slík hindrvitni var framit. Veðrátta batnaði skjótt, sem Þorbjörg hafði sagt. Býr Þorbjörn skip sitt, ok ferr þar til er hann kemr í Brattahlíð. Eiríkr tekr vel við honum með blíðu ok kvað þat vel, er hann var þar kominn. Var Þorbjörn með honum um vetrinn, ok skuldalið hans, enn þeir vistuðu háseta með bóndum. Eftir um várit gaf Eiríkr Þorbirni land á Stokkanesi, ok var þar gerr sæmilegr bær, ok bjó hann þar síðan.

4. (Af Leif hinum hepna ok kristni kom á Grænland). Eiríkr átti þá konu, er Þórhildr hét ok við henni tvá

Digitized by Google

sonu. Hét annarr Þorsteinn enn annarr Leifr; þeir váru báðir efnilegir menn, ok var Þorsteinn heima með föður sínum, ok var eigi sá maðr á Grænlandi, er jafnmannvænn þótti sem hann. Leifr hafði siglt til Noregs ok var með Óláfi konungi Tryggvasyni. Enn er Leifr sigldi af Grænlandi um sumarit urðu þeir sæhafa til Suðreyja. Þaðan byrjaði þeim seint, ok dvöldust þeir þar lengi um sumarit. Leifr lagði þokka á konu þá er Þórgunna hét; hon var kona ættstór, ok skyldi Leifr at hon mundi vera margkunnig. Enn er Leifr bjóst brott, beiddist Þórgunna at fara með honum. Leifr spurði hvárt þat væri nökkut vili frænda hennar; hon kveðst þat ekki hirða. Leifr kveðst eigi þat kunna sjá at sínu ráði, at gera hertekna svá stórættaða konu í ókunnu landi, — „enn vér liðfáir.“ Þórgunna mælti: „Eigi er víst, at þér þykki því betr ráðit.“ „Á þat mun ek þó hætta“, sagði Leifr. „Þá segi ek þér“, sagði Þórgunna, „at ek man fara kona eigi ein saman, ok em ek með barni; segi ek þat af þínum völdum; get ek at þat mun vera sveinbarn, þá er fæðist; enn þóttu vilir engan gaum at gefa, þá man ek upp fæða sveininn ok þér senda til Grænlands, þegar fara má með öðrum mönnum, enn ek get at þér verði at þvílíkum nytjum sonareignin, sem nú verðr skilnaðr okkarr til, enn koma ætla ek mér til

Digitized by Google

Grænlands áðr lýkr.“ Leifr gaf henni fingrgull ok vaðmálsmöttul grænlenzkan ok tannbelti. Þessi sveinn kom til Grænlands ok nefndist Þorgils. Leifr tók við honum at faðerni, ok er þat sumra manna sögn, at þessi Þorgils hafi komit til Íslands fyrir Fróðárundr um sumarit, enn sjá Þorgils var síðan á Grænlandi, ok þótti þar enn eigi kynjalaust um hann verða, áðr lauk. Þeir Leifr sigldu brott ór Suðreyjum, ok tóku Noreg um haustit. Fór Leifr til hirðar Óláfs konungs Tryggvasonar. Lagði konungr á hann góða virðing, ok þóttist sjá at hann mundi vera vel mentr maðr. Eitt sinn kom konungr at máli við Leif ok segir: „Ætlar þú út til Grænlands í sumar?“ „Þat ætla ek“, sagði Leifr, „ef þat er yðvarr vili.“ Konungr svarar: „Ek get at þat mun vel vera, ok skaltu þangat fara með erindum mínum, ok boða þar kristni“. Leifr kvað hann ráða skyldu, enn kvaðst hyggja, at þat erindi mundi torflutt á Grænlandi. Konungr kveðst eigi þann mann sjá, er betr væri tilfallinn enn hann — „ok muntu giftu til bera“. „Þat mun því at eins“, segir Leifr, „ef ek nýt yðvar við.“ Lætr Leifr í haf, ok er lengi úti ok hitti á lönd þau er hann vissi áðr enga ván til. Váru þar hveitiakrar sjálfsánir ok vínviðr vaxinn; þar váru þau tré er mösur hétu, ok höfðu þeir af þessu öllu nökkur merki; sum tré svá mikil,

Digitized by Google

at í hús váru lögð. Leifr fann menn á skipflaki ok flutti heim með sér; sýndi hann í því hina mestu stórmensku ok drengskap sem mörgu öðru, er hann kom kristni á landit, ok var jafnan síðan kallaðr Leifr enn hepni. Leifr tók land í Eiríksfirði, ok fór heim síðan í Brattahlíð ok tóku þar allir menn vel við honum. Hann boðaði brátt kristni um landit ok almennilega trú, ok sýndi mönnum orðsending Óláfs konungs Tryggvasonar, ok sagði hversu mörg ágæti ok mikil dýrð fylgdi þessum sið. Eiríkr tók því máli seint at láta sið sinn, enn Þjóðhildr gekk skjótt undir, ok lét gera kirkju eigi allnærri húsunum; þat hús var kallat Þjóðhildarkirkja; hafði hon þar fram bænir sínar, ok þeir menn sem við kristni tóku. Þjóðhildr vildi ekki samræði við Eirík síðan hon tók trú, enn honum var þetta mjök móti skapi. Á þessu gerðist orð mikit, at menn mundu leita lands þess, er Leifr hafði fundit; var þar formaðr at Þorsteinn Eiríksson, fróðr maðr ok vinsæll. Eiríkr var ok til beðinn ok trúðu menn hans gæfu framast ok forsjá. Hann var lengi fyrir, enn kvað eigi nei við, er vinir hans báðu hann til; bjoggu síðan skip þat, er Þorbjörn hafði út haft, ok váru til ráðnir tuttugu menn, ok höfðu ítit fé, eigi meira enn vápn ok vistir. Þann myrgin reið Eiríkr heiman; tók hann einn kistil, ok var þar í gull ok silfr;

Digitized by Google

fal hann þat ok fór síðan leiðar sinnar. Ok bar svá til, at hann fell af baki ok brotna rifin í síðunni, enn lesti höndina í axlarliðnum. Af þeim atburði sagði hann Þórhildi, konu sinni, at hon tæki féit á brott; lézt þess hafa at goldit, er hann hafði féit fólgit. Síðan sigldu þeir út ór Eiríksfirði með gleði mikilli; þótti þeim allvænt sitt efni. Þá velkti all-lengi úti í hafi, ok kvámu þeir ekki á þær slóðir sem þeir vildu. Þeir kvámu í sýn við Ísland, ok svá höfðu þeir fugl af Írlandi; rak þá skip þeira um haf innan; fóru aftr um haustit ok váru allmjök væstir ok þrekaðir; koma við vetr sjálfan á Eiríksfjörð. Þá mælti Eiríkr: „Kátari sigldu vér í sumar út ór firðinum enn nú eru vér, ok eru þó enn mörg góð (ráð) at. Þorsteinn svarar: „Þat er nú höfðinglegt bragð, at sjá nökkut gott ráð fyrir þeim mönnum öllum, sem hér eru nú ráðstafalausir, ok fá þeim vist í vetr.“ Eiríkr svarar: „Þat er jafnan satt sem mælt er, at eigi veit fyrr enn svarat er, ok svá mun hér fara; skal nú hafa ráð þín um þetta.“ Fóru nú allir, þeir er eigi höfðu aðrar vistir, með þeim feðgum; síðan fóru þeir heim í Brattahlíð, ok váru þar um vetrinn.

5. (Þorsteinn Eiríksson fekk Guðríðar. Aftrgöngur). Nú er frá því at segja, at Þorsteinn Eiríksson vakti bónorð við Guðríði, ok var því máli vel svarat

Digitized by Google

bæði af henni ok af föður hennar; er þetta at ráði gert. Þorsteinn gengr at eiga Guðríði og var þetta brúðkaup í Brattahlíð um haustit; fór sjá veizla vel fram ok var all-fjölment. Þorsteinn átti bú í Vestrbygð á bæ þeim er hét í Lýsufirði, enn sá maðr átti þar helming í búi er Þorsteinn hét; Sigríðr hét kona hans. Fór Þorsteinn í Lýsufjörð um haustit til nafna síns ok þau Guðríðr bæði. Var þar við þeim vel tekit; váru þau þar um vetrinn. Þat gerðist þar til tíðinda, at sótt kom í bæ þeira er lítit var af vetri. Garðarr hét þar verkstjóri; hann var ekki vinsæll maðr; hann tók fyrst sótt ok andaðist; síðan var skamt at bíða, at hverr lézt at öðrum. Þá tók sótt Þorsteinn Eiríksson ok Sigríðr kona Þorsteins nafna hans. Ok eitt kveld fýstist Sigríðr at ganga til náðahúss er stóð í gegn útidyrum. Guðríðr fylgdi henni, ok horfðu þær móti útidyrunum. Þá kvað hon við hátt, Sigríðr. Guðríðr mælti: „Vit höfum óvarlega farit, ok áttu engan stað við, at kalt komi á þik, ok förum vit heim sem skjótast". Sigríðr svarar: „Eigi er fært at svá búnu; hér er nú liðit þat alt hit dauða fyrir dyrunum, ok Þorsteinn bóndi þinn, ok þar kenni ek mik, ok er slíkt hörmung at sjá". Ok er þetta leið af mælti hon: „Föru vit nú, Guðríðr, nú sé ek ekki liðit". Var þá Þorsteinn horfinn henni; þótti hann áðr haft hafa svipu

í hendi ok vilja berja liðit. Síðan gengu þær inn, ok áðr morgun kæmi, þá var hon látin, ok var ger kista at líkinu. Ok þenna sama dag ætluðu menn at róa, ok leiddi Þorsteinn þá til vara, ok í annan lit fór hann at sjá veiðiskap þeira. Þá sendi Þorsteinn Eiríksson nafna sínum orð, at hann kæmi til hans, ok sagði svá, at þar væri varla kyrt, ok húsfreyja vildi færast á fætur og vildi undir klæðin hjá honum. Ok er hann kom inn, var hon komin upp á rekkjustokkinn. Þá tók hann hana höndum. ok lagði bolöxi fyrir brjóst henni. Þorsteinn Eiríksson andaðist nær dagsátri. Þorsteinn bóndi bað Guðríði leggjast niðr ok sofa, enn hann kveðst vaka mundu um nóttina yfir líkinu. Hon gerir svá, ok er skamt leið á nóttina, settist Þorsteinn Eiríksson upp ok mælti, — kveðst vilja at Guðríðr væri þangat kölluð, ok kveðst vilja tala við hana — „guð vill at þessi stund sé mér gefin til leyfis ok umbótar míns ráðs“. Þorsteinn bóndi gengr á fund Guðríðar, ok vakti hana, biðr hana signa sik ok biðja sér guðs hjálpar og segir, hvat Þorsteinn Eiríksson hafði talað við hann — „ok hann vill finna þik; verðr þú ráð fyrir at sjá hvat þú vilt upptaka, því at ek kann hér um hvárkis at fýsa“. Hon svarar: „Vera kann, at þetta sé ætlat til nökkurra þeira hluta, er síðan sé í minni hafðir, þessi hinn undarlegi hlutr;

Digitized by Google

enn ek vænti at guðs gæzla muni yfir mér standa; mun ek ok áhætta með guðs miskunn, at fara til móts við hann, ok vita, hvat hann vill tala, því at ek mun eigi forðast mega, ef mér skal mein at verða; vil ek síðr at hann gangi víðara; enn mik grunar at þat man á liggja". Nú fór Guðríðr ok hitti Þorstein; sýndist henni sem hann feldi tár; hann mælti í eyra henni nökkur orð hljótt svá at hon ein vissi, enn þat mælti hann svá at allir heyrðu, at þeir menn væru sælir, er trúna heldu, ok henni fylgdi öll hjálp ok miskunn; ok sagði þó at margir heldu hana illa — „er þat engi háttr, sem hér hefir verit á Grænlandi, síðan kristni kom hér, at setja menn niðr í óvígða mold við litla yfirsöngva; vil ek mik láta flytja til kirkju ok aðra þá menn, sem hér hafa andast, enn Garðar vil ek láta brenna á báli sem skjótast, því at hann veldr öllum aftrgöngum þeim er hér hafa verit í vetr". Hann sagði henni svá um sína hagi, ok kvað hennar forlög mikil mundu verða, enn bað hana varast at giftast grænlenzkum mönnum, bað at hon legði fé þeira til kirkju ok sumt fátækum mönnum, ok þá hné hann aftr öðru sinni. Sá hafði háttr verit á Grænlandi, síðan kristni kom þangat, at menn vóru grafnir í bæjum, þar sem önduðust, í óvígðri moldu, skyldi setja staur upp af brjósti hinum dauða; enn síðan er kenni-

menn kómu til, þá skyldi upp kippa staurinum ok hella þar í vígðu vatni, ok veita þar yfirsongva, þótt þat væri miklu síðar. Lík þeira Þorsteins váru færð til kirkju í Eiríksfjörð, ok veittir þar yfirsongvar af kennimönnum. Tók Eiríkr við Guðríði, ok var henni í föðurstað. Litlu síðar andaðist Þorbjörn; bar þá alt fé undir Guðríði; tók Eiríkr hana til sín ok sá vel um hennar kost.

6. (Af höfða-Þórði). Þórðr hét maðr, er bjó at Höfða á Höfðaströnd; hann átti Friðgerði, dóttir Þóris hímu ok Friðgerðar, dóttur Kjarvals Írakonungs. Þórðr var son Bjarnar byrðusmjörs, Þorvaldssonar hryggs Ásleikssonar, Bjarnarsonar járnsíðu, Ragnarssonar loðbrókar. Þau áttu son er Snorri hét; hann átti Þórhildi rjúpu, dóttur Þórðar gellis. Þeira son var Þórðr hesthöfði. Þorfinnr karlsefni hét sonr Þórðar; móðir Þorfinns hét Þórunn. Þorfinnr var í kaupferðum, ok þótti góðr fardrengr. Eitt sumar býr Karlsefni skip sitt, ok ætlar til Grænlands. Snorri Þorbrandsson ferr með honum ór Álftafirði, ok vóru fjórir tigir manna á skipi. Maðr hét Bjarni Grímólfsson breiðfirzkr at ætt; annarr hét Þórhallr Gamlason, austfirzkur maðr; þeir bjoggu hit sama sumar skip sitt, ok ætluðu til Grænlands; þeir vóru fjórir tigir manna á skipi. Láta þeir Karlsefni í haf þessum tveim skipum, þegar þeir vóru búnir.

Digitized by Google

Ekki er um þat getit hversu langa útivist þeir höfðu; enn frá því er at segja, at bæði þessi skip kómu á Eiríkssfjörð um haustit. Eiríkr reið til skipa ok aðrir landsmenn; tókst með þeim greiðleg kaupstefna; buðu stýrimenn Eiríki at hafa slíkt af varningi sem hann vildi, enn Eiríkr sýnir þeim stórmensku af sér á móti, því at hann bauð þessum tveim skipshöfnum til sín heim um veturinn í Brattahlíð; skorti þar eigi útibúr stór til at varðveita í varning þeira; skorti þar ekki mat þat er hafa þurfti ok líkaði þeim vel um vetrinn. Enn er dró at jólum, tók Eiríkr fæð mikla ok var óglaðari enn hann átti vanda til. Eitt sinn kom Karlsefni at máli við Eirík, ok mælti: „Er þér þungt, Eiríkr bóndi? menn þykjast finna at þú ert óglaðari enn þú átt vanda til. Þú hefi veitt oss með hinni mestu rausn, ok erum vit skyldir til at launa þér slíku góðu, sem vér höfum föng á; nú segðu hvat ógleði þinni veldr". Eiríkr svarar: „Ér þiggit vel ok góðmannlega; nú leikr mér þat eigi í hug at á yðr verði halt um vár skifti; hitt er heldr, at mér þykki ugglegt, þá er þér komið annarstaðar, at þat flytist, at þér hafið engi jól verri haft enn þessi, er nú koma ok Eiríkr hinn rauði veitti yðr í Brattahlíð á Grænlandi", „Þat mun eigi svá fara, bóndi", segir Karlsefni, „vér höfum á skipi váru bæði malt ok

Digitized by Google

korn, ok hafið þar af slíkt er þér vilið, ok gerið veizlu svá stórmannlega sem yðr líkar fyrir því". Þetta þiggr Eiríkr ok var þá búit til jólaveizlu, ok var hún hin sæmilegasta, svá at menn þóttust trautt þvílíka rausn sét hafa í fátæku landi. Ok eftir jólin vekr Karlsefni bónorð fyrir Eiríki um Guðríði, því at honum leizt sem hann mundi forræði á hafa". Eiríkr svarar vel ok segir, at hon man sínum forlögum verða at fylgja, ok kveðst góða eina frétt af honum hafa; ok lauk svá, at Þorfinnr festi Guðríði, ok var þá aukin veizlan ok drukkit brullaup þeira, ok var þetta í Brattahlíð um vetrinn.

7. (Hófst Vínlandsferð). Í Brattahlíð hófust miklar umræður, at menn skildu leita Vínlands ens góða, ok var sagt at þangat mundi vera at vitja góðra landskosta; ok þar kom at Karlsefni ok Snorri bjoggu skip sitt, at leita landsins um várit. Með þeim fór ok sá maðr er Bjarni hét ok annarr Þórhallr, er fyrr eru nefndir, með sínu skipi. Maðr hét Þorvarðr; hann átti Freydísi, dóttur Eiríks rauða laungetna; hann fór ok með þeim ok Þorvaldr son Eiríks, ok Þórhallr sem kallaðr var veiðimaðr; hann hafði lengit verit með Eiríki, veiðimaðr hans um sumrum, enn bryti um vetrum. Hann var mikill maðr ok sterkr ok svartr ok þursalegr, ljóðlyndr ok illorðr, þat er hann mælti,

Digitized by Google

ok eggjaði jafnan Eirík ens verra; hann var illa kristinn; honum var víða kunnugt í óbygðum; hann var á skipi með Þorvarði ok Þorvaldi. Þeir höfðu þat skip, er Þorbjörn hafði út haft. Þeir höfðu alls fjóra tígi manna ok hundrat, er þeir sigldu til Vestribygðar ok þaðan til Bjarneyjar. Þaðan sigldu þeir í tvö dægr í suðr; þá sjá þeir land ok skutu báti ok könnuðu landit, ok fundu þar hellur stórar ok margar tólf álna víðar; fjöldi var þar melrakka. Þeir gáfu þar nafn ok kölluðu Helluland. Þaðan sigldu þeir tvau dægr, ok brá til landsuðrs ór suðri ok fundu land skógvaxit, ok mörg dýr á; ey lá þar undan í landsuðr; þar í drápu þeir einn björn ok kölluðu síðan Bjarney, enn landit Markland. Þaðan sigldu þeir suðr með landinu langa stund, ok kómu at nesi einu; lá landit á stjórn; váru þar strandir langar ok sandar. Þeir reru til lands ok fundu þar á nesinu kjöl af skipi ok kölluðu Kjalarnes; þeir kölluðu ok strandirnar Furðu-trandir, því at langt var með at sigla. Þá gerðist landit vágskorið; þeir heldu skipunum í einn vág. Óláfr konungr Tryggvason hafði gefit Leifi tvá menn skozka; hét maðrinn Haki, enn hon Hekja; þau váru dýrum skjótari; þessir menn váru á skipi með Karlsefni; enn er þeir höfðu siglt fyrir Furðustarndir, þá létu þeir ena skozku menn á land, ok báðu þau hlaupa suðr á landit,

Digitized by Google

at leita landkosta, ok koma aftr áðr þrjú dægr væri liðin. Þau höfðu þat klæði er þau kölluðu kjafal; þat var svá gert, at höttr var á upp, ok opit á hliðunum, ok engar ermar á, knept saman milli fóta með knappi ok hnezlu, enn ber váru þau annarsstaðar. Þeir biðu þar þá stund; enn er þau kómu aftr, hafði annat í hendi vínberja köngul, enn annat hveitiax nýsát; gengu þau á skip út, ok sigldu þeir síðan leiðar sinnar. Þeir sigldu á fjörð einn; þar lá ein ey fyri utan; þar um váru straumar miklir; því kölluðu þeir hana Straumey. Svá var mörg æðr í eynni, at varla mátti ganga fyrir eggjum. Þeir kölluðu þar Straumfjörð. Þeir báru þar farma af skipum sínum ok bjoggust þar um; þeir höfðu með sér allskonar fénað. Þar var fagrt landslag. Þeir gáðu einskis utan at kanna landit; þeir váru þar um vetrinn, ok var ekki fyrir unnit. Um sumarit tókust af veiðarnar. ok gerðist ilt til matar; þá hvarf brátt Þórhallr veiðimaðr; þeir höfðu áðr heitit á guð til matar, ok varð eigi við svá skjótt sem þeir þóttust þurfa; þeir leituðu Þórhalls um þrjú dægr ok fundu hann á hamargnípu einni; hann lá þar ok horfði í loft upp, ok gapti bæði munni ok nösum. ok þuldi nökkut; þeir spurðu því hann var þar kominn; hann kvað þá þat engu varða; þeir báðu hann fara heim með sér, ok hann gerði svá. Litlu síðar

Digitized by Google

kom þar hvalr, ok fóru þeir til ok skáru, ok kendi engi maðr hvat hvala var, ok er matsveinar suðu, þá átu þeir ok varð öllum ilt af. Þá mælti Þórhallr: „Drjúgari varð enn rauðskeggjaði nú enn Kristr yðvarr; hefir ek þetta nú fyrir skáldskap minn, er ek orta um Þór fulltrúann; sjaldan hefir hann mér brugðizt". Ok er menn vissu þetta, báru þeir hvalinn allan í kaf, ok skutu sínu máli til guðs; batnaði þá veðrátta, ok gaf þeim útróðra ok skorti þá síðan eigi föng, því at þá var dýraveiðr í landinu, enn eggver í eynni, enn fiski ór sjónum.

8. (Af Karlsefni ok Þórhalli). Svá er sagt, at Þórhallr vill fara norðr fyrir Furðustrandir, at leita Vínlands, enn Karlsefni vill fara suðr fyrir landit; býst Þórhallr út undir eynni ok verða þeir eigi fleiri saman enn níu menn; enn alt annat lið fór með Karlsefni. Enn er Þórhallr bar vatn á skip sitt, ok drakk, þá kvað hann vísu:

(1) **Hafa kváðu mik meiðar**
**malmþings es komk hingat —**
**mér samir land fyr lýðum**
**lasta — drykkinn bazta;**
**Bilds hattar verðr buttu**
**beiði-Týr at stýra,**
**heldr 's svát ek krýp at keldu,**
**komat vín á grön mína.**

Ok er þeir váru búnir, undu þeir segl. Þá kvað Þórhallr:

Digitized by Google

(2) Förum aftr þars órir
eru sandhimins landar
látum kenni val kanna
knarrar skeið en breiðu,
meðan bilstyggvir byggja
bellendr ok hval vella
laufa veðrs, þeirs leyfa
lönd á Furðuströndum.

Síðan sigldu þeir norðr fyrir Furðustrandir ok Kjalarnes, ok vildu beita vestr fyrir; þá kom móti þeim vestanveðr, ok rak þá upp á Írlandi, ok váru þeir þar barðir ok þjáðir, ok lét Þórhallr þar líf sitt, eftir því sem kaupmenn hafa sagt.

9. Nú er at segja af Karlsefni, at hann fór suðr fyrir landit ok Snorri ok Bjarni með sínu fólki. Þeir fóru lengi og alt þar til er þeir kómu at á einni er fell af landi ofan ok í vatn eitt til sjóvar; eyrar váru þar miklar, ok mátti eigi komast í ána utan at hálfflæðum. Þeir Karlsefni sigldu í ósinn, ok kölluðu í Hópi. Þeir fundu þar á landi sjálfsána hveitiakra, þar sem lægðir váru, enn vínvið alt þar sem holta vissi. Hverr lækr var þar fullr af fiskum. Þeir gerðu grafir, þar sem mættist landit ok flóðit gekk ofarst; ok þá er út fell sjórinn, váru helgir fiskar í gröfunum. Þar var mikill fjöldi dýra í skóginum meðr öllu móti. Þeir váru þar hálfan mánuð, ok skemtu sér ok urðu við ekki varir; fé sitt höfðu þeir

Digitized by Google

meðr sér. Ok einn morginn snemma er þeir lituðust um, sá þeir mikinn fjölda húðkeipa, ok var veift trjám á skipunum, ok lét því líkast sem í halmþúst, ok var veift sólarsinnis. Þá mælti Karlsefni: „Hvat man þetta hafa at teikna?“ Snorri Þorbrandsson svarar honum: „Vera kann at þetta sé friðarmark, ok tökum skjöld hvítan, ok berum at móti“, ok svá gerðu þeir. Þá reru þeir á móti ok undruðust þá er fyrir váru ok gengu á land upp. Þeir váru svartir menn ok illilegir, ok höfðu ilt hár á höfði. Þeir váru mjök eygðir ok breiðir í kinnum. Dvöldust þeir at stund ok undruðust þá sem fyrir váru ok reru síðan í brott ok suðr fyrir nesit.

**10**. Þeir Karlsefni höfðu gert búðir sínar upp frá vatninu, ok váru sumir skálarnir nær vatninu, enn sumir firr. Nú váru þeir þar þann vetr; þar kom enginn snjór, ok alt gekk fé þeira sjálfali fram. Enn er vára tók, sá þeir einn morgin snemma at fjöldi húðkeipa reri sunnan fyrir nesit, svá mart sem kolum væri sát fyrir Hópit; var þá ok veift af hverju skipi trjánum. Þeir Karlsefni brugðu þá skjöldum upp, ok er þeir fundust, tóku þeir kaupstefnu sín á milli, ok vildi þat fólk helzt hafa rautt skrúð; þeir höfðu á móti at gefa skinnvöru ok algrá skinn. Þeir vildu ok kaupa sverð ok spjót, enn þat bönnuðu þeir Karlsefni

Digitized by Google

ok Snorri. Þeir Skrælingjar tóku spannarlangt rautt skrúð, fyrir ófölvan belg, ok bundu um höfuð sér. Gekk svá kaupstefna þeira um hríð; tók at fættast skrúðit með þeim Karlsefni, ok skáru þeir þá svá smátt í sundr, at eigi var breiðara enn þversfingrs ok gáfu Skrælingjar þó jafnmikið fyrir sem áðr eða meira.

11. Þat bar til, at griðungr hljóp ór skógi, er þeir Karlsefni áttu, ok gellr hátt; þetta fælast Skrælingjar, ok hlaupa út á keipana, ok reru síðan suðr fyrir landit; verðr þá ekki vart við þá þrjár vikr í samt. Enn er sjá stund var liðin, sjá þeir fara sunnan mikinn fjölda Skrælingja skipa, svá sem straumar stæðu; var þá trjánum öllum veift andsælis; ok ýla upp allir mjök hátt. Þá tóku þeir Karlsefni rauðan skjöld, ok báru at móti. Skrælingjar hlupu af skipum ok síðan gengu þeir saman. ok börðust; var þar skothríð hörð, því at Skrælingjar höfðu valslöngur. Þat sá þeir Karlsefni at Skrælingjar færðu upp á stöng knött stundar mikinn, því nær til at jafna sem sauðarvömb, ok helzt blán .at lit, ok fleygðu af stönginni upp á landit yfir lið þeira Karlsefnis, ok lét illilega viðr þar sem niðr kom. Við þetta sló ótta miklum á Karlsefni ok alt lið hans svá at þá fýsti enginn annars enn flýja, ok halda undan upp með ánni, því at þeim þótti lið Skræl-

Digitized by Google

ingja drífa at sér öllum megin, ok léttu eigi fyrr enn þeir kómu til hamra nökkurra, ok veittu þar viðtöku harða. Freydís kom út ok sá at þeir Karlsefni heldu undan, ok kallaði: „Hví rennið þér undan þessum auvirðismönnum, svá gildir menn sem þér eruð, enn mér þótti sem þér mættið drepa niðr svá sem búfé; ok ef ek hefða vápn, þótti mér at ek skyldi betr berjast enn einhverr yðvarr.“ Þeir gáfu engan gaum hennar orðum. Freydís vildi fylgja þeim ok varð seinni, því at hon var eigi heil; gekk hon þá eftir þeim í skóginn. Enn Skrælingjar sækja at henni; hon fann fyrir sér mann dauðann; þar var Þorbrandr Snorrason, ok stóð hellusteinn í höfði honum; sverðit lá bert í hjá honum; tók hon þat upp, ok býst at verja sik. Þá kómu Skrælingjar at henni; hon dró þá út brjóstit undan klæðunum, ok slettir á beru sverðinu; við þetta óttast Skrælingjar, ok hljópu undan á skip sín, ok reru í brott. Þeir Karlsefni finna hana ok lofa kapp hennar. Tveir menn fellu af þeim Karlsefni, enn fjöldi af þeim Skrælingjum. Urðu þeir Karlsefni ofrliði bornir, ok fóru nú heim eftir þetta til búða sinna, ok bundu sár sín, ok íhuga hvat fjölmenni þat myndi verit hafa, er at þeim sótti af landinu ofan; sýnist þeim nú sem þat eina mun liðit verit hafa, er af skipunum kom, enn hitt fólkit mun verit hafa sjónhverfingar. Þeir Skræl-

Digitized by Google

ingjar fundu ok mann dauðan, ok lá öxi í hjá; einn þeira tók upp öxina, ok höggr með tré, ok þá hverr af öðrum, ok þótti þeim vera gersimi, ok bíta vel; síðan tók einn ok hjoggu í stein, svá at brotnaði öxin, ok þá þótti þeim engu nýt, er eigi stóðst grjótit, ok köstuðu niðr.

12. Þeir Karlsefni þóttust nú sjá, þótt þar væri landkostir góðir, at þar myndi jafnan ótti ok ófriðr á liggja af þeim er fyrir byggja. Síðan bjoggust þeir í brott, ok ætluðu til síns lands, ok sigldu norðr fyrir landit, ok fundu fim Skrælingja í skinnhjúpum, sofnaða nær sjó; þeir höfðu með sér stokka ok í dýramerg dreyrablandinn; þóttust þeir Karlsefni þat skilja, at þessir menn myndu hafa verit gervir brott af landinu; þeir drápu þá. Síðan fundu þeir Karlsefni nes eitt, ok á fjölda dyra; var nesit at sjá sem mykiskán væri, af því at dýrin lágu þar um næturnar. Nú kómu þeir Karlsefni aftr í Straumfjörð ok váru þar fyrir alls gnóttir, þess er þeir þurftu at hafa. Þat er sumra manna sögn, at þau Bjarni ok Guðríðr hafi þar eftir verit, ok tíu tigir manna með þeim, ok hafi eigi farit lengra; enn þeir Karlsefni ok Snorri hafi suðr farit, ok fjórir tigir manna með þeim, ok hafi eigi lengr verit í Hópi enn vart tvá mánuði, ok hafi sama sumar aftr komit. Karlsefni fór þá á einu skipi at leita Þórhalls veiðimanns, enn annat liðit var eftir, ok

Digitized by Google

fóru þeir norðr fyrir Kjalarnes, ok berr þá fyrir vestan fram, ok var landit á bakborða þeim; þar váru þá eyðimerkr einar alt at sjá fyrir þeim, ok nær hvergi rjóðr í. Ok er þeir höfðu lengi farit, fellr á af landi ofan, ór austri í vestr; þeir lögðu inn í árósinn, ok lágu við hinn syðri bakkann.

13. (Víg Þorvalds Eiríkssonar). Þat var einn morgin, er þeir Karlsefni sá fyrir ofan, rjóðrit flekk nökkurn sem glitraði við þeim, ok æptu þeir á þat; þat hrærðist, ok var þat Einfætingr, ok skaut ofan á þann árbakkann, sem þeir lágu við. Þorvaldr, Eiríksson rauða, sat við stýri, ok skaut Einfætingr ör í smáþarma honum. Þorvaldr dró út örina, ok mælti: „Feitt er um ístruna; gott land höfum vér fengit kostum, enn þó megum vér varla njóta.“ Þorvaldr dó af sári þessu litlu síðar. Þá hleypr Einfætingr á braut ok norðr aftr. Þeir Karlsefni fóru eftir honum, ok sá hann stundum. Þat sá þeir síðast til hans, at hann hljóp á vág nökkurn. Þá hurfu þeir Karlsefni aftr. Þá kvað einn maðr kviðling þenna:

(3) Eltu seggir,
allsatt var þat,
einn Einfæting
ofan til strandar;
enn kynlegr maðr
kostaði rásar

Digitized by Google

hart um slóðir;
heyrðu Karlsefni!

Þeir fóru þá í brott ok norðr aftr, ok þóttust sjá Einfætingaland; vildu þeir þá eigi hætta liði sínu lengr. Þeir ætluðu öll ein fjöll, þau er í Hópi váru, ok þessi er nú fundu þeir, ok þat stæðist mjök svá á, ok væri jafnlangt ór Straumfirði beggja vegna. Hinn þriðja vetr váru þeir í Straumfirði. Gengu menn þá mjök í sveitina ok varð þeim til um konur, ok vildu þeir er ókvæntir váru sækja til í hendr þeim sem kvæntir váru, ok stóð af því hin mesta óró. Þar kom til hit fyrsta haust Snorri son Karlsefnis, ok var hann þá þrevetr. er þeir fóru brott. Þá er þeir sigldu af Vínlandi, tóku þeir suðræn veðr ok hittu þá Markland, ok fundu þar Skrælingja fim, ok var einn skeggjaðr; konur váru tvær ok börn tvau, tóku þeir Karlsefni sveinana, enn hinir kómust undan, ok sukku þeir Skrælingjar í jörð niðr. Sveina þessa tvá höfðu þeir með sér. Þeir kendu þeim mál ok váru skírðir. Þeir nefndu móður sína Vethildi ok föður Óvægi. Þeir sögðu at konungar stjórnuðu Skrælingjum, ok hét annarr þeira Ávalldanía. enn annar Valldidida. Þeir kváðu þar engin hús; lágu menn í hellum eða holum. Þeir sögðu þar liggja land öðrum megin gagnvart sínu landi. er þeir menn bygðu, er váru í hvítum klæðum ok bæru

Digitized by Google

stangir fyrir sér, ok váru festar við flíkar, ok æptu hátt, ok ætla menn at þat hafi verit Hvítramannaland eða Írland it mikla.

14. Þá Bjarna Grímólfsson bar í Írlands haf, ok kómu í maðksjá. ok sökk drjúgum skipit undír þeim. Þeir höfðu bát þann, er bræddr var með seltjöru, því at þar fær eigi trémaðkr á; þeir gengu í bátinn, ok sá þeir þá, at þeim mátti hann eigi öllum vinnast. Þá mælti Bjarni: „Af því at bátrinn tekr eigi meira enn helming manna várra, þá er þat mitt ráð, at menn séu hlutaðir í bátinn, því at þetta skal ekki fara at mannvirðingu. Þetta þótti öllum svá drengilega boðit, at engi vildi móti mæla; gerðu þeir svá, at þeir hlutuðu mennina, ok hlaut Bjarni at fara í bátinn, ok helmingr manna með honum, því at bátrinn tók ekki meira. Enn er þeir váru komnir í bátinn, þá mælti einn íslenzkr maðr, er þá var í skipinu, ok Bjarna hafði fylgt af Íslandi: „Ætlar þú Bjarni hér at skiljast við mik?“ Bjarni svarar: „Svá verðr nú at vera.“ Hann svarar: „Öðru hézt þú föður mínum, þá er ek fór at Íslandi með þér, enn skiljast svá við mik, þá er þú sagðir at eitt skyldi ganga yfir okkr báða.“ Bjarni svarar: „Eigi skal ok svá vera, gakk þú hingat í bátinn, enn ek mun upp fara í skipit, því at ek sé at þú ert svá fúss til fjörsins.“ Gekk Bjarni þá upp í skip-



Digitized by Google

it, enn þessi maðr í bátinn, ok fóru þeir síðan leiðar sinnar, til þess er þeir koma til Dýflinnar á Írlandi, ok sögðu þessa sögu, enn þat er flestra manna ætlan, at Bjarni ok hans kumpánar hafi látizt í maðksjónum, því at ekki spurðist til þeira síðan.

15. (Ættartala frá Karlsefni ok Þuríði konu hans). Annat sumar eftir fór Karlsefni til Íslands, ok Guðríðr með honum, ok fór heim í Reynisnes. Móður hans þótti sem hann hefði lítt til kostar tekit, ok því var Guðríðr eigi heima enn fyrsta vetr. Enn er hon prófaði, at Guðríðr var kvenskörungr mikill, fór hon heim og váru samfarir þeira góðar. Dóttir Snorra Karlsefnissonar var Hallfríðr, móðir Þorláks biskups Runólfssonar. Þau áttu son er Þorbjörn hét; hans dóttir hét Þórunn, móðir Bjarnar biskups. Þorgeirr hét son Snorra Karlsefnissonar, faðir Ingvildar, móður Brands biskups hins fyrra. Dóttir Snorra Karlsefnissonar var ok Steinunn, er átti Einarr, son Grundar-Ketils, Þorvaldssonar króks, Þóris sonar á Espihóli; þeira son var Þorsteinn rang'átr; hann var faðir Guðrúnar, er átti Jörundr at Keldum; þeira dóttir var Halla, móðir Flosa, föður Valgerðar, móður herra Erlonds sterka, föður herra Hauks lögmanns. Önnur dóttir Flosa var Þórdís móðir frú Ingigerðar ríku; hennar dóttir var Hallbera,

Digitized by Google

abbadís í Reynisnesi at Stað. Mart stórmenni er komit annat á Íslandi frá Karlsefni ok Guðríði, þat er ekki er hér skráð.

Veri guð með oss. Amen!



Digitized by Google

## Vísnaskýringar.

**1. (Þórhallr veiðimaðr).** Malmþings meiðar[1] kváðu mik (skyldu) hafa bazta drykkinn es ek kom hingat. Mér samir lasta land fyr lýðum. Bílds hattar beiði-Týr[2] verðr at stýra buttu[2]; svá es heldr at ek krýp at keldu; vín komat[3] á grön mína.

1. *malmþings* meiðar menn. 2. *Bildr*, Óðinn; Óðins *höttr*, hjálmr; hjálms *beiði-týr*, maðr. — 2. *butta*, kirna eða fata *(bötte* á dönsku). — 3. *komat* = kom eigi.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

**2. (Þórhallr veiðimaðr).** Förum aftr þars órir landar eru; látum kenni-val sandhimins[1] kanna en breiðu knarrar skeið, meðan bilstyggvir[2] bellendr laufa veðrs[3], þeir es leyfa[4] lönd, byggja á Furðuströndum ok vella hval[5].

1. *sandhiminn*, sjór; *kenni-valr sandhimins*, skip. — 2. *bilstyggvir*, styggvir í bili, skapbráðir. — 3. *bellendr laufa* (sverða) *veðrs*, bardagamenn. — 4. *leyfa* = lofa. — 5. *vella*, sjóða.

**3. (Einn maðr).** Þessi vísa þarf engrar skýringar við.

Digitized by Google

# NÖFN.



Digitized by Google

Digitized by Google

Digitized by Google

Digitized by Google

**Jón** ritstj. **Ólafsson** segir meðal annars um Íslendinga sögur:

„Sumir segjast ekki hafa ráð á að kaupa þessar ódýru bækur. Í 9 tilfellum af 10 er þetta ósatt. Ein tvö af þeim 28 bindum, sem út eru komin, kosta svo mikið sem tvær flöskur af brennivíni; 22 af 28 bindum kosta *minna* en ein flaska af brennivíni. Með öðrum orðum: 1 bindi (Njála) kostar 1 kr. 75 a., 1 bindi (Grettla) 1 kr. 40 a., 1 bindi (Egla) kostar 1 kr. 25 a., 1 bindi (Laxdæla) kostar 1 kr. Öll hin kosta minna, frá 85 a. niður að 25 a. Öll útkomnu 28 bindin kosta *16 kr. 60 a.* — Það er mikið í *einu*, þótt verðið sé *afar-lágt*. En með því að kaupa eitt og eitt bindi í senn (eða tvö, þrjú af þeim ódýrari), getur hver maður eignast allar sögurnar smátt og smátt. Og þá eru þær fjársjóður, sem vert er að eiga, dýrmætur eigandanum og niðjum hans“.

*(Nýja Öldin III., bls. 242).*

Digitized by Google

